{Þess íslendska evangeliska}
{Smábóka-Félags rit No.50, c.}

## Er eg Guds Barn?

Þetta er eitt það allramikilvægasta Spursmál, sem talast og þeinkjast kann. En — Gud nádi! hversu fáir þeinkja þó med réttri hjartans alvöru þarum?

Margir láta sér nægja eintóma blinda Von, en prófa sig ecki sjálfa réttiliga, hvort þeir séu í tölu sannkalladra Guds barna edur ei. En þú sem villt forsjálari vera, og ei byggja Von sína og trú á sandi, heyr hvad Guds ord seigir um þetta málefni. Hvor er þá Guds Barn eptir þess lærdómi? Svar: Sá er Guds Barn sem —

1) gjördt hefur eina sanna ydrun fyrir allar sínar syndir, og það svo sanna, ad hann hatar þær og fordast af öllu hjarta bædi heimugliga og opinberliga; og þær syndir einna helst, sem honum ádur verid hafa vanafastastar og kjærastar. Sem —

2) hefur eina lifandi trú og traust á Jesú Christo, og fadmar ad sér í sálu sinni, hans

blódugu friðþægíngu og forþénustu, og það með innilígustu eptirlaungun bæn og þakklæti. Sem —

3) feingið hefur í hjarta sitt hreina og heita elsku til Guðs og Frelsarans, hvør elska að kémur honum, án þvíngunar, til, ecki einúngis að láta af illu, heldur og til að læra og ástunda gott að gjøra; svo það er því hans eptirlæti að gjøra Guðs vilja, í øllu því, sem honum møguligt er. Hér af flýtur:

Að þvíllíkt eitt réttskickað Guðs barn lætur yfir alla hluti fram sér annt um vera, að géta staðið stødugt í soddan ásigkomulagi, því það veit, að neima það gjaldi varhuga við, er því viðbúið, að kunna svo að brasa, að það líði Skipbrot á trúnni; sem dæmin sýna, bæði í heil. Ritníngu og víðar.

Þessvegna brúkar það kostgjæsiliga meðøl þaug, sem varðveita lifandi trú og sannan Guðs ótta í sálu þess. En þaug meðøl eru tvenslags; ønnur veitandi Meðøl af Guðs hálfu til, en hin viðtakandi á mannsins síðu. Þaug fyrnefndu meðøl eru:

a) Guðs heil. Orð, sem er kraptur Guðs til sáluhjálpar øllum þeim sem trúa. Þetta allrakjæraſta og handhægaſta meðal sparar því ecki eitt Guðs barn að brúka. Það les Guðsorð þessvegna mikið ydugliga, og les það með hjart-

anliguſtu andagt. En þad les þad ecki einaſta koſtgjæfiliga út af fyrir ſjálft ſig, heldur og heyrir þad leſid og prédikad af odrum, bædi í kyrkjunni, og heimahúſum, og þeirri heyrn fylgir audmjúkaſta gaumgjæfni. Þad er ſinnad ſem Davíd var, er matti Guds ord dýrmætara enn Gull, og þókti þad ſætara enn hunángsſeimur.

b) Sakramentin eru ogſvo Guds veitandi nádarmedøl. Skýrnin verdur ad víſu ecki brúkud nema einuſinni, en endurminníng Guds ſáttmála ſem í henni ſaminn verdur vid manninn má þó alvarliga uppvekja í eins Guds barns hjarta heil. drift til ad gánga verdugliga ſinni køllun, og halda ſitt Skýrnarſæri, fyrir Gudi med trúlyndi. Þar á móti gétur eitt Guds barn brúkad Jeſú kvøldmáltídar Sacramentum ſvo opt ſem þad vill. Þeſsvegna ſparar þad ecki ad gánga opt og ydugliga ad þeſſu bleſſada bordhaldi Jeſú holds og blóds, í hvorju þad alltíd finnur nýa og nýa ſvølun, ſætleika og endurnæríngu.

En jafnframt býr þad ſig, ſem allra beſt þad gétur, til þeſſarar heil. Jeſú-Stórhátídar, og kappkoſtar ad byrtaſt þar, fyrir hans augliti, med þeirri meſtu ſálarvidhøfn, honúm til heydurs og þóknunar.

Þaug sídari medølin edur þaug vidtakandi, af mannsins hálfu, eru:

a) Trúin, hvor ad er sem hønd sálarinnar, med hvorri hún tekur á móti Guds nád í Christo, og leggur þennan Féstód med føgnudi í hyrdslu hjarta síns.

b) Vonin, sem er eins og auga Sálarinnar, med hvorju hún horfir sífeldt á fyrirheit Guds í Evangelío, og tekur ecki af þeim sjónhvarfid, hvorsu mikil freistingajel, sem fyrirglepja.

c) Kjærleikurinn til Guds, sem er lífid í trúnni og voninni, hvørjar þess hraustari eru, sem hann er heitari.

En til ad vidhalda þessu innvortis andliga lífi, sem opt er líkt líttloganda Ljósi, brúkar eitt Gudsbarn:

a) óaflátanliga og andagtuga Bæn, hvorja þad finnur sér aldeilis ómissandi vera, eins og sóttlera manni ad neyta hollrar og nærandi fædu. Dapriss Bænin, daprast undir eins trúin og vonin, og med þeim allar christiligar dygdir.

b) Þad brúkar þolnærst Vokuna, eda andliga Vareygd fyrir sinna Sálaróvina áráfum, því þad veit, ad ef þad sofnar er því mesti vodi af þeim búinn, og sála þess stødd rétt sem í hers høndum. Í einu ordi, þessi Jesú rádlegging: vakid og bidjid svo þér fallid ecki í freistni, er

einu Guds barni stadføst og ógleymanlig lífsregla.

Hér af spretta þá allar christiligar dygdir í hjarta þess og lifnadi, rétt eins og sjálfkrafa. Til dæmis:

a) Elskan til allra manna, sem framflýtur af kjærleikanum til Guds.

b) Miskunsemi vid þá voludu, af því þad sjálft nýtur Guds miskunsemda í Christo.

c) Sáttfýsi vid mótgjørdamenn, af því Gud hefur fyrirgéfid því þess misgjørdir, og tekid þad í sátt.

d) Hlýdnin vid þá yfirbodnu, hvørja þad ýdkar ad dæmi Jesú, sem hlýdinn var allt til krossins dauda.

e) Réttvísin í allri høndlun, því þad hefur Guds vilja og bod alltíd fyrir augum sér.

f) Þolinmædin í øllum þjáníngum, því hún er naudsýnlig þeim sem gjøra vill Guds vilja; og

g) Støduglyndid í øllu gódu, því þad veit ad sá einn ødlast Lífsins kórónu, sem trúr er allt til daudans.

Hvørja til ad ødlast Gud hjálpi øllum oss í Jesú nafni! Amen.